ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands m-l 22. tbl. 5. árg. 1976

Verð 100 kr.



# Til baráttu gegn kjaraskerðingunum

Nú fáum dögum fyrir jól kemur enn ein holskefla vöruverðshækkana og mönnum er spurn hvað er hægt að ganga langt án þess að nokkurt andsvar komi á móti. Nú hefur vöruverð verið hækkað meira en 100% frá síðustu áramótum á mörgum vörutegundum. Sérstaklega hafa þessar hækkanir bitnað þungt á þeim sem síst skyldi - barnmörgum fjölskyldum, öldruðu fólki og elli- og örorkulífeyrisþegum. Allt þetta fólk hefur verið, eða er í hópi þeirra sem lægst hafa launin og mátti síst við þeirri rausnarlegu jólagjöf sem búvöruverðshækkunin var í þessum mánuði. Hækkanir og verðbólga er orðinn svo fastur liður að sennilega myndi fólki bregða meira við, ef það fengi verðstöðvun í jólagjöf en ekki verðbólgu. Þess vegna skulum við reyna að skerpa minni okkar um þróun verðlagsmála á síðasta ári.

## Kjaraskerðingarnar dynja yfir

Árið hófst eins og svo oft vill verða á verðbólgutímum með því að verkalýðshreyfingin háði mikla verkfallsbaráttu. En vegna skipulags baráttunnar og markmiðanna varð árangurinn harla rýr. Samið var um prósentuhækkun í 4 stigum og sérstök "rauð strik" áttu að gæta þess að launin héldu í við verðbólguna. Blekið var varla þornað á samningunum, þegar allar vörur voru hækkaðar um 5-10%. Vonir fólks um að hinir lágu febrúarsamningar drægju úr verðbólguskriðunni urðu að engu Fólk fór að átta sig á því að samningarnir höfðu verið sjónleikur settur á svið af atvinnurekendum og ASÍ. Árangur þeirra varð fljótlega enginn annar en sá, að binda samninga verkalýðsfélaganna fram á mitt ár 1977. Þetta kom sér einkar vel fyrir þá sem nú mata krókinn á verðbólgunni - víxlabraskara, okurlánara, kaupmenn, heildsala og atvinnurekendur af öllu tagi, sem nú slógu víxla en létu afborganirnar brenna upp í verðbólgunni. Þeir sem voru látnir borga þessa þróun voru verkamennirnir og vinnandi alþýða. STÉTTABARÁTTAN benti á að verðbólgan hefði hækkað um 18% á tímabilinu september 1975 til júní 1976, en á sama tíma hefðu laun ekki hækkað nema um 6-9% Þannig hefur stöðugt dregið sundur með launahækkunum og vöruverðshækkunum á þessu ári En hvernig hefur þá rekstur þjóðarbúskaparins gengið á þessu ári?

## Aukinn gróði atvinnurekenda.

Samkvæmt nýjustu skýrslu Þjóðhagsstofnunar fyrir árið 1976, er viðskiptahalli í utanríkisviðskiptum okkar Íslendinga nú aðeins 3,6% en var 11-12% á árunum 1975 og 1976. Þar kemur einnig fram að á fyrstu 10 mánuðum þessa árs verði vöruskiptajöfnuðurinn 19 þús. milljón krónum hagstæðari en hann var á sama tíma í fyrra, en þá var vöruskiptajöfnuður óhagstæður um tæpa 18 milljarða. Þeir sem stunda útflutning græddu líka ófáar milljónir króna á ÞESSUM SAMA tíma. Vöruútflutningurinn jókst um 16-18%, en fyrir þetta aukna útflutningsmagn fékkst mun hærra verð. Þannig að verðmæti útflutnings í erlendri mynt hækkaði á sama tíma um 38%. Um leið og þessi aukna fjársöfnun útflytjanda átti sér stað varð samdráttur á innflutningi um 6-7% hvað varðar magn, en 3% í erlendri mynt.



Þessi samdráttur á innflutningi sýnir ljóslega að kaupmáttur launa hefur dregist saman á meðan gífurleg hækkun verður á útflutningi. Gróðamyndunin hefur margfaldast í þjóðfélaginu.

Það kemur einnig fram í þessari skýrslu að Þjóðhagsstofnun gerir ráð fyrir verulegum vexti þjóðartekna eða um 3% sérstaklega vegna batnandi viðskiptakjara og að svo verði einnig á næsta ári. En þrátt fyrir batnandi þjóðarhag er samt gert ráð fyrir, "að kaupmáttur kauptaxta allra launþega verði að meðaltali u.þ.b. 4% minni í ár en í fyrra". Ráðstöfunartekjur heimilanna eru líka sagðar minni, eða um 1% minni en í fyrra miðað við vísitölu vöru og þjónustu. Í þessum útreikningi gerir Þjóðhagsstofnun ráð fyrir að launahækkanir haldi í við verðbólguna að mestu, en við vitum að svo er ekki og síst hjá þeim lægstlaunuðu. Til dæmis þyrfti kaup verkafólks að hækka um 30% til að ná sama kaupmætti og 1. mars 1974.

## Að lokum.

Nú í byrjun þessa mánaðar var haldið þing Alþýðusambands Íslands. Á þessu þingi var lögð upp sú lína sem fylgja á í komandi baráttu og virðast litlar breytingar eiga að verða á starfsaðferðunum. Það á ekki að endurskoða baráttuaðferðirnar og kröfugerðin verður jafnlág og áður. Það lítur kannske vel út, þegar ASÍ setur fram kröfu um að lægstu laun nái 100 þúsund krónum en öll önnur laun hækki um sömu krónutölu, en lítum þá aðeins nánar á þessa kröfu. Ef við gerum ráð fyrir til að einfalda málin, að það verði miðað við 6. taxta Dagsbrúnar og að hann verði kominn í 20 þúsund kr. um mitt næsta ár og þá 86 þúsund krónur á mánuði. Það vantar því 14 þúsund krónur til að ná 100 þúsund króna markinu þegar til samninga kemur - og þá á eftir að semja.

Við skulum minnast þess að fyrir síðustu samninga var krafan sett um 38% kauphækkun, sem endaði með samningum upp á 6%. Það má því gera ráð fyrir að eitthvað tapist í samningunum og við skul um gera ráð fyrir að helmingurinn tapist samkvæmt fyrri reynslu.

Þá verður kauphækkunin 7000kr. eða 8.14% og með óbreyttri stefnu má jafnvel gera ráð fyrir enn minni árangri. Það er því augljóst að það á að endurtaka sömu kúnstirnar og frá síðustu samningum, nema nú á að láta 100 þúsund króna kröfuna blekkja, því ekki er alltaf hægt að nota sama agnið.

Verkafólk verður að hafna þessum sýndarleik forystunnar og heimta raunverulegar kjarabætur sem eru "lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku" og vísitölubinding launa. Þetta eru þær kröfur sem setja á fram. Og við verðum að hafna þeim umræðum sem ASÍ og atvinnurekendur hafa magnað upp, að baráttan snúist um að jafna launamismuninn. Þetta eru ótímabærar umræður og eiga alls ekki við á tímum eins og núna. Þessar umræður hafa orðið til þess að enginn hefur fengið neitt út úr kjarasamningum og síst þeir lægstlaunuðu. Þær þjóna auðvaldinu til að sundra verkalýðsstéttinni og eru því skaðlegar baráttunni fyrir bættum kjörum.

GA/.

# STÉTTABARÁTTAN VIKUBLAÐ 1977

Verkalýðshreyfingin þarfnast skipulagningar og samtengingar í þeirri baráttu sem nú fer í hönd. Árásir auðvaldsins á kjör og lýðræðisleg réttindi verkalýðsins færast sífellt í vöxt. Á hinn bóginn er stéttin sundruð og skipulagslaus.

## Stéttabaráttan - blað fjöldans.

Þörfin fyrir aukna skipulagningu kallar á sterkt baráttublað sem getur verið í senn skipuleggjari baráttunnar, samtengjari og pólitískur leiðtogi. Til að safna saman kröftum verkalýðsins og vinnandi alþýðu til sameiginlegs átaks, þarf hún að eignast vikulegt málgagn sem getur axlað þetta hlutverk. STÉTTABARÁTTAN ætlar sér að gegna þessu hlutverki og það getur hún því aðeins gert að hún komi nægilega oft út og sé útbreidd meðal fjöldans.

Nú um áramótin ætlar KFÍ/ML að hefja vikulega útgáfu blaðsins. Til þess að þetta mikla átak geti heppnast, verða lesendur blaðsins og velunnarar að sameinast um að styrkja STÉTTABARÁTTUNA bæði með því að skrifa fréttir úr baráttunni og eins með fjárframlögum. STÉTTABARÁTTAN er blað verklýðsfjöldans og hún getur ekki treyst á neinn annan í starfi sínu og áróðri.

## Gerum STÉTTABARÁTTUNA að voldugu baráttutæki.

Verkefni blaðsins verða í æ ríkari mæli að tengjast allri baráttu fjöldans, veita henni pólitískt innihald og leiðsögn og skipuleggja hana. Til þess þarf blaðið að flytja fleiri og betri fréttir úr verkalýðsbaráttunni hérlendis, það þarf að skerpa pólitíska leiðsögn þess og gera hana að leiðarljósi sem varðar veg fjöldabaráttunnar. Einnig þarf að stórefla fjárhag blaðsins og afla fleiri áskrifenda. Sala blaðsins mun dragast saman í fyrstu eftir að það kemur vikulega út, en við verðum að keppast að því að auka söluna aftur, til að núverandi útbreiðsla haldist og aukið verði við með tilkomu vikublaðsins. Þá munum við geta gert STÉTTABARÁTTUNA að voldugu baráttutæki í höndum fjöldans.

Félagar, stuðningsfólk, lesendur og velunnarar. Með sameiginlegu átaki munum við geta lyft því Grettistaki, sem útgáfa vikulegs kommúnísks verkalýðsblaðs krefst. Látum ekki okkar eftir liggja í baráttunni fyrir frelsun verkalýðsfjöldans undan kúgun kapitalismans. Tökum þátt í að skapa öflugt baráttutæki til að sameina stétt okkar og gera hana færari til að berjast fyrir sósíalísku þjóðskipulagi á Íslandi.

# Spilling í dómskerfinu

Spillingin í dómskerfinu hefur komið æ betur í ljós á undanförnu ári. Víðtæk sakamál sem ná yfir eiturlyfja- og áfengissmygl, fjársvik og mútur, morð og önnur meiriháttar afbrot, eru látin viðgangast svo til óáreitt. Orsökin? Í málin eru flæktir "háir herrar" sem dómskerfið má ekki hrófla við.



## Borgaralegt eðli ríkisvaldsins.

Í Stjórnarskránni segir að allir séu jafnir fyrir lögunum. En í rauninni er þetta engan veginn svona. Ef venjulegur launþegi fer fram yfir á ávísanaheftinu sínu, fær hann jafnharðan sekt og breytir þá engu hvort um smáupphæð er að ræða. Auðmennirnir hafa hins vegar yfirdráttarheimild í bönkunum svo milljónum skiptir og jafnvel þegar þeir hafa misnotað hana hleypur einhver bankastjóranna undir bagga og heimilar meiri yfirdrátt eða lán. Borgi verkamaður ekki skattana sína, er gengið hart að honum, en Sigurbjörn Eiríksson gengur laus og liðugur í meira en fjögur ár þótt hann skuldi nærri 40 milljónir króna í skatta. Lögin eru gerð til að halda verkalýðnum niðri og vernda einkaeignina hjá þeim ríku. Þegar fátækur stelur, kallast það glæpur og refsing kemur fyrir. Þegar ríkur svíkur milljónir undan af opinberu fé, eru málin sett í nefnd eða fryst um áraraðir. Hinir ríku eru skattfrjálsir að mestu leyti en verkafólkið má greiða þungar skattbyrðar. Orsökin fyrir þessu er sú, að ríkisvaldið er stéttarlegt vald vald sem er í höndunum á auðmannastéttinni og sem hún notar til að kúga fjöldann með en vernda hagsmuni sína.

Framhald á bls. 3·

ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENINISMINN HUGSUN MAOS TSE TUNGS!
Stéttabaráttan

Stéttabaráttan 22. tbl.
5. árg. 22.12. 1976.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró: 27810.

# Eining flokksins er forsenda einingar íslenskra marxistaleninista




Frá göngu Baráttueiningar 1. maí 1976

Margir hafa haft orð á því, að sundrung vinstrihreyfingarinnar sé eitt helsta bölið sem hún á við að stríða. Þeir hafa spurt sem svo: hvers vegna sameinist þið ekki og setjið deilurnar niður, til að styrkja baráttuna? Sundrungin er vissulega böl, en hins verður ævinlega að gæta, að hún er ekki gerð til gamans, heldur sprottin upp af baráttu stéttanna í þjóðfélaginu. Þess vegna er ekki hægt að uppræta hana með sameiningarviljanum einum saman, andstæðurnar verður að skýra og leysa. KFÍ/ML hefur sett sér að sameina alla íslenska marxista-lenínista undir merki sín og skapa þannig voldugt forystuafl fyrir íslenskri verkalýðsstétt í frelsisbaráttu hennar. Flokkurinn, kjarni og forysta stéttarinnar, er táknið um einingu hennar. Það getur aðeins verið til einn marxískur-lenínískur flokkur sem þjónar hlutverki framvarðar og leiðtoga. Þess vegna er mikilsverðast að standa órofa vörð um einingu flokksins, því aðeins þannig verður unnt að sameina íslenska kommúnista undir eitt merki til sameinaðrar baráttu.

Sundrungin er verk borgarastéttarinnar, eða öllu heldur talsmanna hennar í röðum verkalýðsins. Það eru forkólfar Alþýðubandalagsins og forysta ASÍ sem magna upp sundrungu í herbúðum fjöldans. Hvenær sem til átaka kemur, alltaf þegar á ríður að verkalýðurinn standi saman koma þessir hálfdrættingar í verkalýðsbaráttunni fram í dagsljósið með úrtölur sínar og uppgjafaranda. Þeir bera raunverulega ábyrgð á því hversu slæm lífskjör verkalýðs eru og hversu sundruð verkalýðshreyfingin er, því hvort tveggja hefur verið sett undir þeirra umsjá í marga áratugi. Hver er svo árangurinn af starfi þeirra? Verkalýðshreyfingin er ólýðræðislegt skrifræðisbákn sem venjulega stendur gegn hagsmunum fjöldans en lætur þó stundum til sín taka, ef frumkvæði verkafólks neyðir hana til þess. Þess vegna er nauðsynlegt að hreinsa verkalýðsfélögin af svikurum og bitlingasöfnurum og gera hana aftur að baráttutæki í höndum fjöldans sjálfs. Til að lyfta slíku grettistaki, þarf verkalýðurinn flokk, flokk sem er vel skipulagður, sameinaður og sterkur í baráttunni. KFÍ/ML er slíkur flokkur eða öllu heldur hann mun í æ ríkara mæli taka þetta hlutverk að sér, eftir því sem afl hans og fjölmenni, skipulag og stefna þroskast og herðist í stéttabaráttunni. Þeir sem kalla sig marxista-lenínista og hafna aðild að KFÍ/ML á forsendum sem eiga ekkert skylt við hagsmuni verkalýðsins, munu óhjákvæmilega snúast öndverðir gegn vexti og styrkingu flokksins og verða þannig óvinir verkalýðsfjöldans og byltingarbaráttu hans. Maó formaður segir:" þeir sem krefjast "sjálfstæðis" vegna persónulegra eða hóphagsmuna eru líka óheiðarlegir. Allir undirförulir, allir sem hafa ekki vísindalega afstöðu til starfs síns, en álíta sjálfa sig mikilvæga og snjalla, eru raunverulega hinir alheimskustu og munu verða að engu gagni." Hafi mönnum skilist að sundrungin sé meinsemd sem þarf að uppræta, hljóta þeir líka að draga þá ályktun, að nauðsyn beri til að styrkja kommúnistaflokkinn, sameina hann og efla til þess að styrkja forystuafl verkalýðsstéttarinnar. Þeir sem hafa hæst um sameiningu og krýna sig til riddara yfir eigingjörnum smásamtökum, en starfa jafnframt af alefli gegn einingu íslenskra marxista-lenínista, eru ekki aðeins þeir heimskustu og fram úr hófi óheiðarlegir, heldur verða þeir líka til mikils ógagns.

KFÍ/ML beinir þeirri spurningu til manna og samtaka sem starfa utan flokksins í nafni marxismans-lenínismans. HVERS KREFJIST ÞIÐ AF KOMMÚNISTAFLOKKI ÍSLANDS/ML TIL ÞESS AÐ GETA GENGIÐ Í HANN OG HLÝTT LEIÐSÖGN HANS Í EINU OG ÖLLU?

Ef menn krefjast persónulegra forréttinda eða hagsmuna fyrir sig eða sinn hóp eru þeir raunverulega andstæðingar einingu. Ef menn krefjast sameiningar og styrkingar flokksins, eflingu agans og stefnufestu, eru þeir raunverulega hliðhollir einingu og verðugir félagar í Kommúnistaflokki Íslands/ML. Þeir sem velja einingu gerast félagar flokksins og vinna verkalýðnum og sósíalísku byltingunni gagn. Hinir sem vilja sundra flokknum í nafni einingarinnar, eru fjandmenn verkalýðsins og sósíalísku byltingarinnar og vinna einvörðungu tjón í baráttunni.

20. desember 1976

# Burt með meindýrin STYRKJUM FLOKKINN

Það er alþekkt staðreynd, að hersveitir alþýðunnar eru best settar án 5. herdeildar borgarastéttarinnar. Baráttusaga verkalýðsins er full af dæmum um ósigra sem svikulir bandamenn og liðsmenn kölluðu yfir hinn stríðandi fjölda. Slíkir útsendarar borgarastéttarinnar og liðhlaupar eru skæðustu fjandmenn verkalýðsins, vinir í orði en bitrir fjandmenn í verki. Þeir eru meindýr, sem naga samstöðuna og agann í sundur, brjóta niður lýðræðið og miðstjórnarvaldið og liða sundur skipulagið. Slík meindýr er best að losa sig við, verkalýðurinn er best settur án þeirra.

Flokkurinn styrkist af að losa sig við hentistefnumenn.

Þungar skyldur eru settar á herðar félaga í kommúnískum flokki. Sá einn er verðugur að nefna sig félaga kommúnísks flokks, sem gengur sjálfviljugur undir aga og skipulag hans, þjónar verkalýðnum í hvívetna og lætur persónulega hagsmuni sína víkja fyrir hagsmunum og þörfum verkalýðsins. Félagar flokksins verða að standa föstum fótum á grundvelli marxismans-lenínismans-kenningum Maó Tse-tung. Þeir verða að standa vörð um stefnuskrá flokksins og reglugerð, fylgja stefnu flokksins í hvívetna og framkvæma hana í starfi. Félagar sem aðeins hafa marxismann-lenínismann á vörunum en fylgja frjálshyggju og eiginhagsmunum í starfi eru ekki þess verðugir að teljast kommúnistar. Þeir eru aðeins róttækir frjálshyggjumenn. Félagarnir verða að breiða út fræðikenningu kommúnismans hvar sem þeir eru staddir og á réttan hátt. Þeir verða að standa með baráttu fjöldans í einu og öllu, hvar og hvenær sem er. Sá sem lítur undan þegar afturhaldsmenn ráðast gegn verkalýðnum, sá sem lætur kyrrt liggja að ráðast gegn afturhaldssömum áróðri meðal fjöldans eða þegir þegar ráðist er á kommúnismann eða verkalýðinn, fremur svik við byltinguna og verkalýðinn. Þeir sem ekki lúta aga flokksins og framfylgja ekki stefnu hans í verki eru hentistefnumenn og meindýr innan flokksins. Á sama hátt og meindýrum er útrýmt miskunnarlaust úr hýbýlum manna, verður að uppræta meindýrin úr flokknum miskunnarlaust. Ef það verður ekki gert munu þau sá út frá sér eitri sínu, naga sundur eininguna og brjóta niður flokkinn. Baráttan gegn hentistefnunni innan flokksins er barátta milli tveggja stétta, verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar. Og flokkurinn styrkist við að losa sig við hentistefnumennina, hugleysi þeirra og úrtölustefnu, hringlanda þeirra og sviksamlegt undirferli. Að sameina flokkinn felur í sér að hreinsa flokkinn af meindýrum og hentistefnumönnum.

Hentistefnumennirnir nærast á sundrungu

Hentistefnumennirnir nærast á sundrungu og baktjaldamakki. Starfsaðferðir hennar eru borgaralegar og óheiðarlegar. Hvert sinn er skoðanaskipti verða, notar hún tækifærið til að koma af stað óvild og óánægju. Með söguburði og fölsunum reynir hún að sundra félögunum og gera þá andstæða miðstjórn flokksins og leiðandi félögum. Hún reynir að styðja alla andstöðu innan flokksins og breyta henni í persónulega óvild og hatur. Hún reynir að ráðast gegn öðrum félögum og magna upp villur þeirra í starfi, til að beina athyglinni frá sjálfri sér og komast þannig óséð upp með sundrungarstarf sitt. Eins og rotturnar naga sundur innviði hússins, eins nagar hentistefnan sundur innvið flokksins. Þess vegna fögnum við þegar svikarar og hentistefnumenn flýja flokkinn eða gefast upp á klofningsstarfi sínu. Við viljum meindýrum burt og ef þau velja að fara af sjálfsdáðum höfum við ekkert á móti því. Að sameina flokkinn og íslenska marxista-lenínista þýðir að losa flokkinn við meindýrin.

## HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Rauðu stjörnunnar. Lindarg. 15
Akureyri: Nanna Rögnvaldsd. Byggðavegi 88.
Suðurnes: Jónas H Jónsson Holtsgötu 26. Njarðvík, sími 2641
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7.



# ÚR BARÁTTUNNI

Skæruverkfall í Garðahéðni.

Í Garða-Héðni fóru verkamenn í nokkra daga skæruverkfall til að mótmæla slæmum vinnuaðbúnaði. Eigandi fyrirtækisins ætlaði að láta þá vinna í húsnæði sem var óeinangrað og ekki upphitað. Þessu neituðu þeir 30 verkamenn sem þarna vinna, lögðu niður vinnu og kröfðust úrbóta. Á öðrum degi verkfallsins byrjuðu pípulagningarmenn að koma hitakerfinu í lag og aðrir verkamenn fóru að einangra húsið. Þetta verkfall kennir verkamönnum að kröfur þeirra ná ekki fram að ganga nema þeir leggi út í baráttu. Árangur næst ekki með því, að vera með einhverja "snjalla" samningamenn á vegum verkalýðsfélaganna, heldur aðeins gegnum baráttu verkafólksins á vinnustöðunum. Verkafólk getur dregið lærdóm af þessu fordæmi verkamannanna í Garða-Héðni.

o

Uppsagnir í Hagkaup.

Nú fyrir skömmu fengu starfsstúlkur á Saumastofu Hagkaups jólaglaðninginn sinn frá fyrirtækinu. 12 þeirra hefur verið sagt upp og engin þeirra 40 sem á Saumastofunni vinna fá laun sín greidd fyrir desember fyrr en eftir áramót. Stúlkurnar hafa unnið af sér dagana milli jóla og nýárs með því að vinna á laugardögum og flest fyrirtæki reyna að koma því svo fyrir, að starfsfólkið fái desember-launin greidd fyrir jól. Það verður sennilega erfitt um jólahald hjá þeim sem eru einstæðar mæður. En Hagkaup er ánægt. Það er búið að fá fötin saumuð fyrir jólasöluna og þá skiptir litlu máli hvort saumastúlkurnar geta haldið jól eða ekki. Orsakirnar fyrir uppsögn þeirra 12 sem eru sagðar breyttar aðstæður og samdráttur. Flestar sem fengið hafa uppsagnarbréfið eru hálfsdagsverkakonur, en nokkrar hafa áður fengið tiltal fyrir slæma mætingu eða léleg afköst. Þessi geðþótta uppsögn saumastúlknanna í Saumastofu Hagkaups sýnir okkur rétt verkafólksins. Okkur er kastað út á götuna, þegar ekki er lengur hægt að græða á okkur. Kannske Hagkaup hafi aðeins 20 mínútna matarhlé, kortér í kaffi og leggi blátt bann við að stúlkurnar ræði saman í vinnutíma til að ná hámarksafköstum. En þá má líka búast við að afköstin verði eftir því. Verkafólk er ekki vinnudýr, heldur manneskjur sem skapa allan auðinn sem þjóðfélagið byggir á.

o

VERKAMÖNNUM SPARKAÐ.

Á Gúmmívinnustofunni í Skipholti hefur verkafólk líka fengið sparkið nú fyrir jólin. Þar hefur 3 verkamönnum verið sagt upp frá og með áramótum. Undanfarnar vikur hafa þessir verkamenn unnið fulla dagvinnu og mikla yfirtíð á kvöldin og um helgar. Engin ástæða er gefin upp önnur en að fækka þurfi mannskapnum. Rétt er að geta þess að Dagsbrún hefur ekki trúnaðarmann á staðnum.

Ofannefnd dæmi ættu að minna verkafólk á, að með vaxandi kreppu færast uppsagnir í aukana. Krafa okkar er ekkert atvinnuleysi - látum auðvaldið borga kreppuna.

Hættan frá Sovétríkjunum fer sífellt vaxandi.

Á síðustu tveimur áratugum hafa orðið þau umskipti í alþjóðastjórnmálum, að enginn sem lætur sér annt um framtíð mannkynsins getur leitt þau hjá sér. Valdahlutföll heimsvaldaríkjanna hafa raskast og ástandið líkist mest þeirri dauðamollu sem ríkti á árunum fyrir síðari heimsstyrjöldina. Munurinn er eðlislega lítill, en hlutverkaskipti hafa orðið með stórþjóðum heimsins. Bandaríkin, sem áður voru fyrirsvari V-Evrópu og báru ægishjálm yfir auðvaldsheiminn að lokinni styrjöldinni 1945, eru haldin innri upplausn og stjarna þeirra fer lækkandi með ári hverju. Þó halda þau enn víðáttumiklum landflæmum undir áhrifavaldi sínu, ráða heilum álfum og stjórna meiri auðlegð en nokkurt ríki á undan þeim hefur gert. En þeim er líkt farið og fyrri heimsvaldaríkjum, með grimmdarverkum sínum og kúgun hafa þau áunnið sér hatur og fyrirlitningu þjóða heimsins, fyrrum lítilþægir bandamenn þeirra í Evrópu og jafnvel annars staðar láta ekki lengur stjórnast af hagsmunum þeirra og innanlands vex með ógnarhraða togstreita og upplausn. Þeim er um megn að halda áhrifasvæði sínu óskertu, þau neyðast til að slaka á klónni gagnvart sjálfstæðisviðleitni bandalagsríkjanna og afhjúpanir á spilltri stjórn heima fyrir og verkfallsbarátta milljónamúgsins naga innviði þeirra. Bandaríkin eru komin að hruni, en þau munu ekki hrynja nema fyrir byltingarsinnuðu bandalagi bandarísks verkalýðs og alþýðunnar í hjálendunum. En að sama skapi sem sól Bandaríkjanna fer hnignandi, færist máttur og umsvif Sovétríkjanna í aukanna. Hinn gamli auðvaldsheimur-Evrópa, má horfa upp á útþenslu Sovétríkjanna aðgerðalaus, auðugasta og öflugasta heimsálfan er sem lömuð af þeirri sundrungu sem síðari heimstyrjöldin olli. Hún verður enn vettvangur harðvítugrar valdabaráttu, en í þetta skiptið sem bitbein stórvelda sem standa utan Evrópu. Ef fer sem horfir og Evrópa fær ekki reist rönd við átökum risaveldanna tveggja, mun álfan enn einu sinni þurfa að þola ógnir heimsstyrjaldar. Þess vegna er sjálfstæðisviðleitni Evrópulanda og tilraunir þeirra til að sameinast gegn áleitni og þrýstingi risaveldanna mikilsverður Þrándur í Götu framþróunar styrjaldarátakanna. Aukin samheldni Evrópulandanna mun slá styrjöldinni á frest, þó hún komi ekki í veg fyrir hana þegar til lengdar lætur. Það getur aðeins eitt afl, nefnilega verkalýðsstéttin og byltingarsinnaður bandamaður hennar í nýlendunum, í þriðja heiminum. En slíkur frestur er þessum öflum kærkominn, til þess að safna kröftum eftir sundrungarstarf nútíma endurskoðunarsinna og þá ráðvillu sem áróðursmeistarar "velferðarþjóðfélagsins" hafa valdið. Slíkur frestur gefur alþýðunni rúm og tíma til að endurskipuleggja krafta sína og safna herafla sínum saman fyrir þau geigvænlegu stéttaátök sem í vændum eru.

# Hyggur Sovét á frekari landvinninga?

Þegar Krústjoff reis upp gegn "Stalínismanum" og hóf að hreinsa villutrú kommúnismans út úr ríkiskerfi Sovétríkjanna jafngilti það valdatöku nýs afls, nýrrar stéttar. Stéttirnar höfðu ekki gufað upp við valdatöku verkalýðsins þvert á móti tókust þær enn á um völdin og af meiri heift en áður. Verkalýðsstéttin réði ríkisvaldinu og var vopnuð. Það var henni skilyrðislaus nauðsyn, til þess að verða ekki gagnbyltingunni auðveld bráð. Ennfremur átti hún stjórnmálaflokk, skipulagt forystuafl bestu sona stéttarinnar, sem braut veginn. Allir þræðir ríkisins lágu að endingu til flokksins, allt byggðist á, að forystuhæfileiki, stjórnkænska og baráttuvilji flokksins stæðist andspyrnu auðvaldsins. Borgarastéttin hafði að vísu orðið að láta af yfirráðunum yfir ríkisvaldinu, en hún bar samt beitt vopn, þar sem stuðningur hinnar alþjóðlegu borgarastéttar var. Ennfremur átti borgaraleg hugmyndafræði, einstaklingshyggja og gróðafíkn djúpar rætur í alþýðunni, þó svo að byltingin hefði verið gerð. Hér réði einkum tvennt, hið óskaplega vald vanans sem býr í sérhverjum einstaklingi milljónaþjóðarinnar, vanans sem tekinn var í arf frá hinu nýfallna auðvaldsþjóðfélagi. Hitt var að smáframleiðsla var enn útbreidd og smáeignin var ráðandi meðal yfirgnæfandi meirihluta þjóðfélagsþegnanna. Þessi vopn bar borgarastétt Rússlands til vígsins og beið að lokum hærri hlut, eftir að verkalýðsstéttin hafði misst marga ágætustu foringja sína og mátt losa um tök sín á smáframleiðendum, meðan á styrjöldinni stóð. Stríðið var gróðurmoldin fyrir hina nýju stétt og þeir sprotar sem náðu að vaxa á stríðstímunum uxu einkum innan flokksins. Borgarastéttin gat ekki og getur aldrei náð völdum verkalýðsríkisins aftur, nema með því að leggja fyrst flokk verkalýðsstéttarinnar að velli. Og það verður ekki gert nema innan frá. Krústjoff og fylgismenn hans voru lítilsgildir jábræður Stalíns og bolsévíkanna, allt þar til þeir stóðu við líkbörur Stalíns. Þá var þeirra tími kominn, þá létu þeir til skarar skríða. Hið fyrsta sölsuðu þeir undir sig völdin í miðstjórn flokksins og brutu mótspyrnu kommúnistanna á bak aftur með fangelsunum, útlegðardómum og aftökum.

Fyrir vikið hlutu þeir óspart hylli bandaríksa og evrópska auðvaldsins sem rómaði þá fyrir víðsýni og frjálslyndi. Síðan tóku þeir að breyta framleiðslunni, sem byggð var á sameignargrunni og stjórnaðist af áætlunargerð, sem verkalýðsfjöldinn tók sjálfur fullan þátt í. Þetta var öllu tafsamara verk. En 1964 er því að mestu lokið, landbúnaðurinn byggir nú algerlega á grunni auðvaldsframleiðslunnar og gróðans. Samyrkjubúin eiga sjálf traktorana og landbúnaðarvélarnar, þó að jörðin sé í eigu ríkisins - þ.e. Krústjoffs og hans eftirmanna. Í stað samyrkju sem miðaðist við þarfir þjóðfélagsins, er komin samkeppnisbúskapur, sem miðast við gróða og hagsmuni forstjóranna fyrir búunum. Í stað samyrkjusjóðanna er komin launavinna, nákvæmlega eins og hún gerist á kapitalískum samyrkjubúum í t.d. Ísrael. 1964 voru líka öll framleiðslutæki, nema raforkuver, samgöngutæki, jörðin og byggingarnar, seldar til verksmiðjanna og fengnar algerlega í hendur forstjóranna. Hin nýja stétt sem tekið hafði völdin 1956, var nú búin að byggja sósíalismanum út og koma kapitalísku arðráni á aftur, aðeins fullkomnara og skipulagðara. Ríkiskapitalisminn sem Bismarck dreymdi um og sósíaldemókratar allra landa hafa boðað undir fána hins "blandaða hagkerfis", hafði náð fullkomnun sinni í Sovétríkjunum. Framleiðslan var nú algerlega ofurseld fámennri einokunarklíku, sem hafði alla þræði pólitíska jafnt sem efnahagslega í sínum höndum. Ríkiseinokunin var alger að heita mátti, en við hlið hennar og í skúmaskotum þjóðlífsins hófst ákaft brask og svindl, forstjórarnir sviku undan handa sér, vöruskýrslur voru falsaðar og vörurnar fóru á svarta markaðinn á helmingi hærra verði en venjulega. Á næturnar framleiddu verksmiðjurnar "fínar vörur" sem ekki fengust í venjulegum verslunum og framleiðslan tók aðeins mið af einu - gróða, hemjulausum ágóða yfirmannanna. Og jafnhliða breyttist samesetning flokksins.



Sovéskur skriðdreki í Prag.

Verkamönnum fækkaði árlega og stórlega, en í staðinn tóku við tæknimenntaðir sérfræðingar, kaupahéðnar og braskarar. Bolsévíkaflokkurinn bar ekki lengur nafn með rentu, eftir stóð ekkert nema nafnið eitt af hugsjónum marxismans-lenínismans. Í stað alræðis öreiganna kom Krústjoff á "alræði þjóðarinnar" í stað flokks verkalýðsins kom flokkur þjóðarinnar og í stað sósíalismans kom fasísk ofbeldisstjórn. Þjóðernismálið sem áður hafði verið leyst í anda alþjóðahyggjunnar, varð nú hæli þjóðrembings og stór-rússneskrar kúgunar á smáríkjunum og skefjalaus hervæðing tók við að vopnun verkalýðsins. Ein þjóð (hin stórrússneska), eitt ríki (Stórrússland) og einn leiðtogi (Brésnefklíkan). Þetta er útkoman af "afstalíniseringu" nútíma endurskoðunarsinna. Og hefði Hitler ekki dregið nasísk sjónarmið sín saman í þessum orðum þremur áratugum áður, myndi Brésneff-klíkan hafa fundið þau upp nú til að lýsa viðhorfum sínum.

Framhald í næsta blaði




Fréttastofan APN, sem er á snærum Sovétríkjanna, gefur út ókeypis blað á íslensku, sem heitir "Fréttir frá Sovétríkjunum." Blaði þessu er fyrst og fremst ætlað það hlutverk að fegra fasismann í Sovétríkjunum og láta líta svo út, að stefna þess ríkis í utanríkismálum sé virðing fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóða, og stuðningur við alþýðu heimsins. En það er erfitt að leika úlf í sauðahóp. Innrás sovéska hersins í Tékkóslóvakíu 1968, og stuðningur þeirra við afturhaldsstjórn Lon Nols í Kambódíu á sínum tíma, sýnir, svo að ekki verður um villst, hvert er hið rétta eðli þeirra til annarra þjóða og alþýðu heimsins.

En hvað með innanríkismál í Sovétríkjunum? Er þar allt í stakasta lagi? Tæplega, ef marka má eftirfarandi klausu sem var í grein um réttindi verkamanna í Sovét, sem birtist í fyrrnefndu blaði Nr. 4 - apríl 1976:

"En stundum er ekki hægt að neita því, að forstjóra sem brýtur "bókstaf" laganna gengur aðeins hið besta til, - hann vill endilega að framleiðsla fyrirtækisins gangi betur. Hann vill til dæmis losa starf eða fá pláss í fyrirtækinu fyrir betri starfsmann og rekur því fyrirrennara hans. Og hvað á að gera ef hinn nýi verkamaður er raunverulega betri?"

Þessi orð lýsa vel borgaralegri afstöðu sovéskara ráðamanna til verkalýðsins. Ef að forstjóra fyrirtækisins sýnist sem svo getur hann rekið verkafólk á dyr, til þess að fá einhverja aðra sem hægt er að arðræna betur. Forstjórinn tekur ákvörðunina einn, en ekki verkafólk fyrirtækisins, því að það er ekki við völd, heldur hin nýja borgarastétt Zaranna í Kreml.

-bsk

o

KOMMÚNÍSKUR FLOKKUR STOFNAÐUR Í DANMÖRKU.

Kommunistisk Forbund M-L hélt nú fyrir skömmu stofnþing kommúnísks flokks - Kommúníska Verkamannaflokksins/Marxistar-Lenínistar. B. Scocozza var kjörinn formaður miðstjórnar flokksins, en hann hafði áður gegnt því hlutverki í KFML, sem var lagt niður við stofnun flokksins. Málgagn flokksins heitir Arbejderavisen.

o

Sovéska andófsmanninum, Bukovsky var sleppt í skiptum fyrir endurskoðunarsinnan Corvalan, formann endurskoðunarsinnaflokksins í Chile. Bukovsky sagði á blaðamannafundi sem hann hélt á vesturlöndum, að hann myndi beita sér fyrir aðstoð við pólitíska fanga hvar sem væri í heiminum. Bukovsky sagði, að Helsinkisáttmálinn væri ekki annað en brögð til að sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir gætu ráðist að Evrópu óvarinni og hert kúgunina heima fyrir.

Framhald af forsíðu

## Spilling í dómskerfinu

Geirfinnsmálið

Geirfinnsmálið svokallað er nú farið að komast til ára sinna. Hvorki hefur þó rekið né gengið í rannsókn þess og reynt hefur verið að beina athygli almennings að fáeinum litlum körlum, sem unnið hafa skítverkin fyrir þá stóru. Það er augljóst að unglingar hafa ekki skipulagt milljónasmygl, ávísanafals og brask, morð og mútur upp á eigin spýtur. Þeir eru aðeins verkfæri í höndum stórglæpamanna sem virðast hafa slík tök á dómskerfinu, að nöfn þeirra má ekki einu sinni nefna opinberlega. Augljóslega er verið að reyna að koma allri sök af þekktum stjórnmálamönnum og framámönnum þjóðfélagsins. Með því að skella skuldinni á fáeina unglinga. Rannsóknarlögreglan í Keflavík, sem hefur unnið þarft verk í að fletta ofan af spillingunni í dómskerfinu, hefur orðið fyrir aðkasti frá æðstu stöðum. Í stað þess að rannsaka málin, hefur hæstiréttur tekið af þeim gæsluvarðhaldsfanga og reynt að koma í veg fyrir að þeir væru að reka nefið í málin. Svo rammt hefur nú kveðið að þessu, að búið er að víkja Hauki Guðmundssyni frá störfum, en hann hefur ásamt Kristjáni Péturssyni verið harðfylgnastur í afhjúpuninni á þætti bankastjóra, lögfræðinga og stjórnmálamanna í Geirfinnsmálinu. Margt er óupplýst ennþá, en vonandi láta þeir félagar úr Keflavík ekki þagga niður í sér með hótunum. Sannleikurinn verður að koma fram í dagsljósið.

Framhald af baksíðu

## Skipulagsleysi í veiðunum

Með hliðsjón af hinu bága atvinnuástandi sem ríkir í ýmsum sjávarplássum úti á landi, auk ástands þorsksstofnsins, hljótum við að krefjast þess að ríkisvaldið láti nú þegar skipuleggja landanir úr togurum á hafnirnar umhverfis landið eins og gert er hjá bátum á loðnuvertíð.

Undanfarið hafa borist fréttir um stórhækkað fiskverð á Bandaríkjamarkaði. Hefur verðið sjaldan eða aldrei verið jafn-hagstætt og nú. Á meðan þessar verðhækkanir hafa orðið á fiskafurðum hafa kjör verkafólks í fiskiðnaðinum verið stórlega skert. Stéttabaráttan vill því taka undir orð Óskars Vigfússonar forseta Sjómannasambandsins í Vísi fyrir skömmu, að: " nú er vissulega kominn tími til að slá upp veislu fyrir fólk í fiskiðnaðinum."

# ASÍ -þingið

Það kom skýrt fram á nýafstöðnu ASÍ-þingi að flokkadrættir borgaralegu stjórnmálaflokkanna sundra verkalýðshreyfingunni. Þessir flokkar sem verma sæti Alþingis nota áhrif sín til þess að halda aftur af baráttu verkafólks og það kom gleggst í ljós í kjaramálunum. Skulu nú tekin nokkur dæmi þessu til stuðnings:

Yfirskrift þingsins var, "Varnarbaráttunni lokið, sóknin hafin". Samþykkt var ályktun um kjaramálin, 100þús. kr. lágmarkalaun og prósentuhækkun launa. 100 þús. kr. krafan færir okkur ekki nær því að lifa á dagvinnunni, auk þess sem verðbólgan verður fljót að ganga á þessa kröfu. Þessi ályktun um kjaramál túlkar því ekki vilja verkafólks í landinu. Á undanförnum mánuðum hafa láglaunaráðstefnur og félagsfundir sumra verkalýðsfélaga samþykkt þá kröfu að berjast fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku með ófalsaðiri vísitölu. Tillagan um prósentuhækkun launa, er til þess fallin að auka launamismun innan ASÍ og sundra stéttinni meira í kaupgjaldsbaráttunni. Af þessu má ljóst verða að yfirlýsing ASÍ um sókn í kjarabaráttunni er aðeins til að slá ryki í augu okkar. Það á ekki að hefja neina sókn.

VINNULÖGGJÖFIN

Nýja vinnulöggjafarfrumvarpið var einnig til umræðu og fordæmdi þingið flest það sem þar kemur fram. Þó var ekki sleginn sá varnagli að miðstjórn ASÍ skyldi ekki eða mætti semja um einstök atriði þess, eins og t.d. aukin völd ASÍ-forystunnar.

Harðar umræður urðu um stefnuskrá ASÍ, þá fyrstu frá því að þau samtök losnuðu undan áhrifavaldi Alþýðuflokksins á sínum tíma. Í því þjóðskipulagi sem við búum við í dag er hún óframkvæmanleg, en eins og allir vita hyggjast þeir flokkar sem ráða ASÍ ekki berjast fyrir þjóðskipulagi verkalýðsins og sameignarframleiðslunnar, heldur aðeins endurbótum innan þess þjóðfélags sem eigendur atvinnutækjanna og aðrir auðmenn geta sætt sig við.

Á þinginu voru nokkrir fulltrúar sem töldust til hinnar svokölluðu "órólegu deildar". Þeirra helsti sigur var að fá samþykkta ályktun um úrsögn Íslands úr Nató og að herinn færi burt. Þessari ályktun ber að fagna. En hver var afstaða þessa hóps til kjaramála? Sú sama og ASÍ forystunnar. Já, því miður. Þessir fulltrúar börðust ekki fyrir kröfunni um lífvænleg laun fyrir dagvinnu, sem er tvímælalaust mikilvægast krafa verkalýðsins í dag. Pólitísk, því að eftir því sem losnar um tökin á vinnuþrælkuninni hefur verkalýðurinn meiri tíma til að sinna málefnum stéttar sinnar svo að eitthvað sé nefnt. Þessi krafa er mikilvæg til þess að verkafólk geti unnið að því að sameina stéttina og taka þátt í fjöldabaráttu gagnstætt þeirri stéttasamvinnu sem nú er ríkjandi innan Alþýðusambandsins.

bsk/-

# Nýjar skattaálögur

Síðastliðinn laugardag, 18. desember lagði ríkisstjórnin fram á Alþingi frumvarp "um endurbætur á skattalögunum". Þetta nýjasta frumvarp kemur í kjölfar mikillar ólgu meðal almennings seinasta sumar vegna skattamisréttisins og óbærilegrar skattakúgunar.

Það stingur í augun, að um leið og fjármálaráðherra leggur fram tillögu að nýjum skattalögum sem sögð eru minnka skattpíninguna, þá reikna sérfræðingar ríkisvaldsins út, að neysluskattar, þ.e. skattar á innflutningi og seldum vörum og þjónustu, muni á næsta ári hækka um 45 milljarði króna frá því sem nú er. Það merkir að skattbyrðin mun að jafnaði hækka um eina milljón á hverja 5 manna fjölskyldu í landinu.

Það er augljóst að meðan svona er, meðan neysluskattar hækka upp úr öllu valdi, verður engu réttlæti komið fram í skattamálum. Óbeinu skattarnir vega langþyngst á metunum og koma óréttlátast niður af öllum gjöldum sem almenningur þarf að greiða. Enda hefur hækkun þessarar skattheimtu undanfarin ár átt drýgstan þátt í versnandi kjörum vinnandi alþýðu.

Nýja skattafrumvarpið er því dæmigert um lýðskrum og hræsni ríkisvaldsins og er eingöngu sett fram til að blekkja fólk og rugla það í ríminu.

En lítum á hverjar eru helstu breytingar sem þetta frumvarp hefur í för með sér. Hún er sú að nú er tekjum skipt milli hjóna við útreikning skatts. Það frádráttarkerfi sem ríkt hefur er fellt niður en gefin loforð um einhverja nýja frádráttarliði í staðinn. Menn geta rétt ímyndað sér hvort hér fylgi hugur máli. Breytingar á skattakerfinu undanfarin ár hafa aldrei fært vinnandi fólki kjarabætur, þótt stjórnmálamenn hafi viðhaft stór og mikil orð um það.

Burt með samneysluna.

En ef skattabreytingarnar eru ekki annað en yfirklór stjórnmálamanna til að viðhalda andlitinu gagnvart lýðnum, þá eru nýju fjárlögin hrein árás á allt vinnandi fólk.

Fjárlögin nú hækka um ca. 40% sem er þó nokkuð meira en almennum hækkunum á kaupgjaldi og verðlagi nemur. Engu að síður standa framlög til félagslegra framkvæmda og þjónustu í stað í krónutölu. Þetta þýðir niðurskurð um ca. 1/4 á framkvæmdum ríkisins í heilbrigðis og skólamálum, til dæmis. Hér er hækkun framkvæmdakostnaðar tekinn með í reikninginn.

Fjárveitingar til hafnarframkvæmda sveitarfélaganna er þannig ákveðinn 930 milljónir króna, en árið 1974 var hún hins vegar 2190 milljónir samkvæmt núgildandi verðlagi.



Fjármálaráðherrann

Þetta er hinn langþráði "samdráttur neyslunnar" sem íhaldið er búið að boða okkur í háu herrans tíð. Krónurnar í launaumslögin eru ekki aðeins minnkaðar, heldur skal þrengja að fólkinu með verri félagslegri þjónustu og minni atvinnuframkvæmdum. En það er ekki allt skorið við nögl. Sá liður fjárlaganna sem nefnist "önnur rekstrargjöld" skal hækka um 58.2%.

Skriffinnskubáknið þarf sitt.

MVS/.



Varla er þetta órólega deildin?



# Hafnarverkamenn Akureyri

Mikil óánægj ríkir nú meðal hafnarverkamanna á Akureyri vegna starfshátta Jóns Helgasonar formanns Verkalýðsfélagsins Einingar. Jón brýtur hiklaust gildandi kjarasamninga milli Einingar og Vinnuveitendasambandsins, verkafólki í óhag. Hann lækkar kauptaxta og semur um nýja án samráðs við viðkomandi verkamenn. Einnig hefur hann gefið út þá tilskipun að vilji verkamenn ekki vinna langt fram á kvöld, geti atvinnurekendur ráðið aðra til þeirra starfa. Tveir verkamenn hafa kært Jón fyrir líkamsárás er þeir ætluðu að fá málum sínum framgengt, en kæran var ekki tekin fyrir hjá bæjarfógetanum. Það er mikill munur á formanni Verkalýðsfélagsins Einingar og þeim baráttumönnum úr verkalýðsstétt sem stofnuðu Verkamannafélag Akureyrarkaupstaðar (1894-1897). Þeir börðust fyrir 10 stunda vinnudegi, hækkuðu dagkaupi og gegn skuldaþrælkun. Engra hagsmuna höfðu þeir að gæta annara en verkalýðsins. En Jón Helgason situr í stjórn Útgerðarfélags Akureyrar og verkamenn treysta honum ekki.

GHB/.

# Skipulagsleysi í veiðunum

Nú nýlega seldi "Ísbjörninn hf" tvo loðnubáta til Noregs, en í stað þeirra voru keyptir tveir litlir togarar. Hluti Nordglobalhagnaðarins ásamt fénu sem fékkst fyrir bátana Ásgeir RE og Ásberg RE, greiddi kostnaðinn við kaupin. Undanfarin tvö ár hafa a.m.k. 11 bátar verið seldir úr landi og fyrir andvirði þeirra flestra eru keyptir togarar. Slík togarakaup valda enn aukinni ofveiði sem aftur kallar á fleiri togara ef sama fiskveiðipólitík verður rekin áfram.

Allt útlit er nú fyrir að bátar af svipaðri stærð og þeir bátar sem seldir voru til Noregs (270-450 tonn) muni verða bundnir við loðnu- og síldveiðar a.m.k. 10 mánuði ársins. Eru slíkir bátar því ein af undirstöðum þess að hægt verði að minnka sóknina í þorskinn, en beina sókninni á aðrar fiskitegundir.

Í þeim byggðarlögum sem keypt hafa nógu marga togara berst mikill afli á land og þar er þrælað í fiskverkuninni frá 7 að morgni til 10 og 12 á kvöldin, svo vikum skiptir.

Aðrir staðir, eins og t.d. Bíldudalur, hafa byggt hráefnaöflun eingöngu á bátaútgerð. Með tilkomu stóraukinnar togaraútgerðar var grundvellinum kippt undan bátunum og þá um leið atvinnu í þessum plássum. Einasta leiðin út úr þessum vanda hefur verið að kaupa togara en nú hafa verið stöðvuð lán til þess til minni plássa. Ekki er það gert af umhyggju fyrir þorskinum heldur vegna þess að fjárfestingasjóðirnir eru þurrausnir vegna gífurlegra fjárfestinga í sjávarútvegi undanfarin ár. Þeir einir geta nú keypt togara, sem geta selt góða loðnubáta úr landi í staðinn.

Framhald á bls. 3

# "Mikill er máttur trúarinnar"

Það er margt sem kemur upp þegar fólk lætur hugann reika nú síðustu dagana fyrir jólin. Jólaamstrið hefur líka oft örvandi áhrif á þessa líkamsstarfsemi og þá jafnvel svo að helst líkist hreinni sturlun, en þau tilfelli eru sem betur fer mjög fátíð. Þó rakst eitt slíkt inn á síður eins dagblaðsins hér um daginn. Ingjaldur nokkur Tómasson skrifar grein í Dagblaðið, þar sem hann lýsir áhyggjum sínum af "heimtufrekju margra forystumanna þrýstihópa", og þar lýsir hann einnig lausninni á efnahagsvandræðum þjóðarinnar sem hann hefur nýverið dottið niður á. Hún er bæði einföld og ódýr. Nú skal "guðskrafturinn" beislaður og loksins nýttur til einhvers annars en að eyða mannkyninu og Ingjaldur hafði "áreiðanlegar" sannanir fyrir því að þetta sé hægt.

"Þegar þorskastríðið var að komast í algjört óefni, gengust kirkjuyfirvöld fyrir því, að beðið var fyrir báðum stríðsaðilum fyrir friðsamlegri lausn. Skömmu síðar var friður saminn." (Dagblaðið 21.des.1976)

Þar hafið þið það. Það var ekki Geir sem samdi við bretana, heldur samdi Guð bæði við Geir og Bretana. Þessu var hægt að koma í kring með því að réttir aðilar töluðu við hans heilagleika. Ingjaldur leggur því til að "Sömu andlegu yfirvöld ættu nú að gangast fyrir almennri bænagjörð til Guðs um jólin, til að hin íslenska þjóð vinni sigur í hinu alvarlega efnahags- og sálarlega stríði." (Dagbl. 21. des. 76)

Við skulum vona að réttir aðilar láti þetta mál til sín taka og kippi efnahagsmálunum í lag yfir hátíðarnar (undarlegt að Geir skyldi ekki vera búinn að koma auga á þessa lausn á undan Ingjaldi) Ef við erum bara nógu trúgjörn og einföld þá ætti hans heilagleika ekki að vera skotaskuld úr því að kippa þessum málum í lag.